Um

# Christi fridþægingu,

útlagt úr engelsku af útgéfaranum.

---

Nú eru meir en 18 hundrud ára lidin sídan ad Jesús, frá Nazareth, hvörs blessada nafn oss öllum kunnugt er, auglýstist medal gydíngafólks á Júdalandi. Lifnadarlag þessarar allra merkiligustu persónu var, í öllu tilliti, frábært og stakligt; ja þvílíkt, ad ecki nockur einn af manna sonum, frá því syndafallid skédi, hefur fundist hans líki. Þar var ecki hjá hönum ad finna, eins og jafnvel hjá hinum besta medal daudligra manna, nockurt sambland hins góda og vonda.

Hjá hönum auglýsti sig eckert annad en eitt fullkomid sakleysi, og flecklaus heilagleiki. „Hann var", segir ritníngin, „heilagur, saklaus, óflekkadur og syndugum fráskilinn." „Han drýgdi ecki synd, og ecki fundust prettir í hans munni." Hans grimmustu fiandmenn (sem hann marga átti, hvörjir ed hötudu hann án orsaka) gátu ecki sannad uppá hann nockra synd. Dómarinn, hvör þó ofur-

seldi hann til þeirra písla, er hans fjandmenn krøfdust ad á hann lagdar væru, vidurkéndi hann saklausan, og þvodi hendur sínar, svo hann ei sekur yrdi í hans blódi; og sjálfur svikarinn, hvør ed seldi hann þeim í hendur, til ad sedja sína nídíngsligu ágyrni, heingdi sjálfan sig, út úr biti og brixli samvitsku sinnar, fyrir þad hann hefdi, eins og hann játadi: »svikid saklaust blód." Nú vitum vér, ad útvortis lifnadarlag einnar manneskju, er vottur þess, hve fullkomnar séu hennar innvortis hugarástædur. Sá, hvørs gjørvalli lifnadur var án minstu lýta, hann hlaut og svo vera aldeilis lýtalaus í sínu hjartalagi. Enda kann og sá alvísi heilagi Gud í sálu Jesú Christi hinn algiørfasta hreinleika, er sambaud hans heil. løgmáli, án allra minstu fleckunar edur vansa, eins og hann sjálfur hrópadi vid hans skýrn í Jordan og ummindun á fjallinu Thabor. Eingu ad sídur var þessi allra merkiligasta persóna, sem svo fullkomliga heiløg og saklaus var, framar ødrum undirorpin, um sína lífidaga, fátækt, ofsóknum, forsmán og ýmsum þreyngíngum, sem endtu ad sídustu, med einum kvalafullum og svívyrdiligum dauda — já þvílíkum, sem, eptir gydínga løgmáli, áleitst einn bølvadur daudddagi; og ecki einúngis þetta, heldur sýnist svo sem hann þar ad auki hafi plágadur verid af svo djúplægnm heimugligum hugarhrellíngum, sem aldeilis ecki sambudu, edur gátu einúngis sprottid af þeim píslum, sem hann útvortis leid, edur vissi fyrir sér liggja. En þad, ad hann

var einn ſtakligur mótlætis- og píſla-madur, ſannaſt óhrekjanliga af hans lífſogu. Og þad ſama er oſs þó tilefni allra ſtærſtu forundrunar.

Nú ſpyr eg þig, minn leſari! vidurkénnirdu ecki, ad Jeſús haſi aldeilis ſaklaus verid? Eg meina ecki einúngis til þeſs, ad hann haſi ſykn verid ſakargiſta þeirra, ſem hans ſjándmenn ákjærdu hann ſyrir, heldur til eins ſyndlauſs fullkomleika ſyrir Gudi innra ſem ytra. En ef þú nú þetta játar, hvørja rökſemd viltú þá leida til píſla þeirra, ſem hann leid? Hvørnig viltú láta þad ſamſtemma hvørt ødru, ad ſminda þér á adra ſídu píſlir og dauda, og á adra fullkomid ſakleyſi og heilagleika — og þad undir ſtjórnun þeſs Guds, ſem bædi er ſjálfur réttlátur og elſkar réttlætid? Þarf er eingin — já alls eingin, ſamhljódan, og alls eckert tilfelli er þad til, ſem þetta kunni vid ad jafnaſt edur líkjaſt; því þó þad ſatt ſé, ad midt undir Guds almennu forſjónar ſtjórnun, ſkéi þad opt, ad gódir menn lídi þjáníngar, medan vondir lifa í luckukjørum, þá ſannar þad ſamt eckert, edur ſambýdur í þeſſu tilliti. Því þegar vér nefnum nockra medal mannanna góda, er þad meint í ſamanburdi vid þeirra eigin medmanneſkjur; ſvo vér alls ecki brúkum þad ordatiltæki í fullkomnunar-heldur í ſamjøfnunar-merkíngu. En ecki meinum vér til nockurs ſakleyſis edur ſyndleyſis ſyrir Gudi, því »allir«, ſeigir ritníngin, »hafa ſyndgad, og hafa ſkort á

þeirri hrósun, sem fyrir Gudi gyldir." Svo þegar einhvör manneskja — hvörsu góð sem hún kallast, lídur mótlæti, er það allíd í sjálfu sér óendanliga minna, enn hún, med sínum syndum gégn Gudi, tilunnid hefur. Í einu ordi: ein áminding um lídun einnar skynjandi sképnu, er, eptir þeirri þeckíngu, sem vér höfum um einn réttlátan og heilagan Gud, aldeilis óadskiljanlig frá áminding um sök og synd, á þess lídanda sídu. — Því væri það ei, ad allir hefdu syndgad, þá væru vissuliga alls eingar þjáníngar né daudi til í heimi þessum. Hér af flýtur, ad vér, fyrir víst, álykta kunnum, ad píslir þær, Jesús leid, hafi ecki fyrir hans eigin skuld verid, það er fyrir nockra synd, er hann sjálfur drýgt hafi. Hvad þá — hvör var þá orsökin til þeirra? Hvört var það augnamid, sem áqvardad var, ad þær svara skyldu? Sú áminding um þær, ad þær ad eins skuli hafa átt ad þéna til speigils uppá þolinmædi og hughreysti, edur til einúngis vitnisburdar um Jesú einlægni og hreinskilni í sínum kénníngum, gétur aldrei fullnægt huga nockurs þess, sem af alvöru sér fyrir sjónir setur, hvörsu það sýnist Guds réttvísu og heilögu stjórn ósamqvæmt, ad leggja píslir og þjáníngar uppá þann, sem saklausn er, og það jafnvel þó madur ecki undir eins horfi á hátign persónu þess, hvör ed píslirnar þoldi — og hvílík var hún þó ecki, í tilliti Jesú frá Nazareth? Hún var, ad sínu leiti, eins stacklig í tilliti síns óendanliga verdugleika, eins

og fakleysið, kollu hans lseruni, í tilliti þess óvidjafnanliga heilagleika. Hann kalladi sig sjálfan Christum, Messíam edur þann Smurda Guds, (Joh. 4, 25. 26. - 10, 24. 25. Math. 16, 16. 17. 2c.) Midt í því hann vanaliga plagadi ad nefna sig Mansins son, hvör titill ad innibyndur í sér eina eigindómsliga yfirburdi yfir alla manna soni, almenniliga ad seigja, þá sagdi hann þó um sjálfann sig undir eins, ad hann væri ad sönnu kominn af himni ofan, en væri þó sami eingu ad sídur á himni (Joh. 3, 18.); ad hann hefdi verid til, ádurenn Abraham var á dögum; og um þá sína tilveru brúkadi hann þaug ordatiltæki, sem svörudu þeim, med hvörjum tilvera Jehovæ, af sjálfum sér til, útlystast í gamla testamentinu (sjá Joh. 8, 58. og 2 Mos. 6. 3, 14.); ad hann væri sonur Guds, í þeim skilníngi, sem hans óvinir skildu þad, og án þess ad mæla á móti því, þegar þeir sögdu, ad hann gjordi sig Gudi jafnan (Joh. 5, 17. 18); ad hann væri eitt og einn med þeim Gudi, sem hann nefndi sinn födur, hvad gydíngar réttiliga útlögdu, svo sem hann gjordi sig sjálfan ad Gudi (Joh. 10, 30. 38. - 14, 8. 11.) Og allt þetta, sem han sagdi um sjálfan sig, stadfesti hann med mörgum og dýrdligum jarteiknum, sem óyggjanliga sönnudu og sýndu, ad þvílíkir hans vitnisburdir, um sína eiginhátign, væru ei bygdir á innbyrlíngu einni, heldur vottudu þad, ad Gud var sannliga med hönum (Joh. 3, 2. 36. 2c.) Og hvad skulu menn

þá þeinkja um allt þetta? Imindan þú, ad slík ein persóna, sem þessi, skyldi pínast allt til dauda, og þad á þvílíkann hátt, ... ádur er afmálad, þad hlýtur ad álítast, þegar menn alvarliga um þad hugsa, hinn allra furduligasti og atburdamesti hlutur.

Yfir-vega þetta í huga þínum, minn kjæri lesari! og haldtú sídan áfram, ásamt mér, ad athuga þær útskýríngar, sem heilög ritníng gèfur yfir þennan leyndardómsfulla tilburd, nefniliga rokfemdir þær, sem hún leidir til písla og dauda þessarar dásamligustu veru.

Heyr þá fyrst hans eigin vitnisburd um efni þetta, er hann útlystar med þvílíkum ordum, er í sjálfum sèr ánægjanliga augljós eru, og ad öllu leiti samhljóda þeim ordatiltækjum, sem allir þeir skrifarar, hvörjum Guds andi blies í brjóst kénníngum þeirra, brúkudu um þetta sama efni. — «Mannsins sonur", sagdi hann, "er kominn til ad leita þess og frelsa þad, sem tapad er" (Luc. 9, 10) «eins og Moyses upphóf eyrorminn á eydimörku, eins skal mansins sonur upphafinn verda; uppá þad, ad hver helst, sem á hann trúir, ecki skuli fyrirfarast, heldur hafa eilíft líf" (Joh. 3, 14 15) «Eg em lífsins braud, sem af himnum er ofan komid; ef nockur etur af þessu braudi, hann mun lifa eilífliga, og þad braud, sem eg gèfa mun, er mitt hold, hvört eg mun gèfa fyrir líf veraldarinnar" (Joh. 6, 17.) «Mansins sonur kom ecki til þess, ad hann léti sér þjóna, heldur ad hann þjónadi ödrum,

og gjœfi fitt líf út til lausnargjalds fyrir marga" (Math. 20, 28.) «Hann tók kaleikinn gjördi þackir gaf þeim hann og sagdi: dreckid allir hér af; þetta er mitt blód hins nýa sáttmála, sem úthellist fyrir marga til synda fyrirgéfníngar" (Math. 26, 27. 28.)

Nú er í þessum frelsarans ordum ein fullkomin samhljódan vid þad, sem bædi spámennirnir, í gamla testamentinu, höfdu ádur fyrirfram sagt, um vísiir þær, hann lída mundi, og postularnir, eptir hans daga, úthrópudu um heiminn, hvörsu þeir spádómar skiljast ættu. t. d. "Hann var særdur fyrir vorar yfirtrodslur", seigir Esajas, «og lemstradur fyrir vorar misgjördir; hegníngin lá á hönum, svo vér hefdum fridinn, og fyrir hans benjar erum vér læknadir ordnir; vér vorum allir, sem villuráfandi saudir, og vorum snúnir hvör og einn á sinn eigin veg; en drottinn hefur lagt uppá hann syndir vor allra — þú munt gjöra hans sálu ad fórn fyrir syndirnar; Hann hefur borid syndir þeirra mörgu" (Es. 53, 5. 6. 10. 12) «Messias mun upprættur verda", seigir Daniel, «þó ecki fyrir sínar eigin sakir" (Dan. 9, 26.) «Sjáid þad Guds lamb", sagdi Jóhannes skýrari «sem í burtuber veraldarinnar syndir" (Joh 1, 29.) Þvílík vóru nú ordatiltæki hinna gömlu spámanna, og sjálfs Jesu nærsta fyrirrennara. Vitnisburdir hans postula eru aldeilis þessu samhljóda í ótal mörgum stödum þeirra rita, sem þeir hafa eptir sig látid. «Vér

erum, án verdskuldunar, réttlátir", segir Paulus, «út af hans náð, fyrir sakir þeirrar endurlausnar, sem er í Jesú Christo, hvørn Gud sett hefur til eins náðarstóls, fyrir trúna í hans blóði" (Róm. 3, 24. 25.) «Því þegar vér dádlausir vorum (gátum oss ecki sjálfir bjargad), dó Jesús Christur fyrir oss á hentugum tíma" (Róm. 5, 6.) «Christur er dáinn fyrir vorar syndir, rétt eptir ritníngunum" (1 Cor. 15, 5) "Gud hefur gjørdt þann ad synd fyrir oss, sem ecki vissi af synd, svo vér ordid gjætum réttlæti Guds í hønum" (2 Cor. 5, 21.) "Í hvørjum vér høfum endurlausnina fyrir hans blóð, sem er syndanna fyrirgéfning, eptir ríkdómi hans náðar" (Col. 1, 14. Eph. 1, 7) «Christur hefur elskad oss og géfid sig sjálfan út fyrir oss, til fridþægíngar og forlíkunar offurs, Gudi til eins sætleiks ilms" (Eph. 5, 2.) «Hann gaf sjálfan sig út fyrir oss, svo han endurleysti oss frá øllu ránglæti" Tit. 2, 14) «Þessi, nefniliga Jesús, þarf ecki dagliga, eins og ypyurstu prestarnir fordum, ad frambera forlíkunar fórnir, fyrst fyrir sínar eigin og svo fólksins syndir, því þetta gjørdi hann einusinni, þegar hann fórnfærdi sjálfum sér" (Ebr. 7, 27.) «Hann hefur nú eitt sinn, í endalok veraldar, byrtst, til ad burtutaka syndina, fyrir sjálfs síns fórnfærsngu" (Ebr. 9, 26) «Christur er eitt sinn fórnfærdur, til ad burttaka syndir hinna mørgu" (Ebr. 9, 28) Þetta allt eru postulans Pauls ord. — Postulinn Petur seigir: «vér erum ecki med forgeingiligum

hlutum, svosem silfri og gulli, endurleystir, heldur med dýrmætu blódi Christi, svo sem þess lambs, sem eingan fleck edur lýti hefdi" (1 Petr. 1, 18. 19.) "Hann sjálfur hefur borid syndir vorar á sínum líkama uppá trénu" (1 Pet. 2, 24.) «Christur hefur sjálfum sér einusinni fyrir syndirnar fórnfært, sá réttláti fyrir ránglála, uppá þad hann gjæti fært oss til Guds" (1 Petr. 3, 10.) Jóhannes Jesu postuli seigir: «Blódid Jesú Chrísti Guds sonar hreinsar oss af øllum vorum syndum" (1 Joh. 1, 7.) «Hann er forlíkan fyrir vorar, þó ecki eingúngis fyrir vorar, heldur og svo fyrir allrar veraldarinnar syndir" (1 Joh. 2, 2.) "Hver ed hefur elskad oss og þveigid oss af syndunum í sínu eigin blódi" (op. 1, 5.). «Þú varst slátradur, og hefur endurkeypt oss, Gudi til handa, med þínu blódi" (op. 5, 9.)

Med þvílíkum ordatiltækjum, sem þessi eru, af hverjum gjørvallt nýa testamentid fullt er, og sérliga opt heimfærd eru til fornfæringa þess gamla testamentis, svo sem sinna eiginligu fyrirmindana, er ímindanin um borgun, fridþægíngu og forlíkun, aldeilis augljósliga og ótvírædt fyrir sjónir sett, svo sem leidandi røksemd til pýsla og dauda Jesú Chrísti. Hversu sem nú mannlig skynsemi vill hid ýtrasta neyta sinna krapta, fær hún ecki mindad nockra eiginliga og óþvíngada útleggíngu, þessara og margra annara líkra ritníngar greina, án þess ad játa þad, ad daudi Jesú Christi verid hafi eitt sann-

arligt og eiginligt fórnfæríngar offur fyrir syndirnar, og hans blóð, blóð friðþægíngarinnar.

En hvør — vilt þú nú máské spyrja — hvør er þá meiníngin í þessu orði friðþægíng? Spurníng sú er ogsvo ysirmáta mikilvæg. Látum oss þá ysirvega eptirfylgjandi hugleiðingar, er til þessa efnis líta, með tilbiðjanda og auðmjúku sinnislagi.

Þetta orð friðþægíng innibindur í sér nockrar þær smindanir, sem svara til þess sönnu bókstafligu náttúru. Merkíng þess er þá eiginliga: að þyggja frið annars vegna eður öðrum til handa, eður gjöra öðrum nockuð það til þægðar, sem afrekar þeim frið, er áður var í ósátt eður óvináttu við annan. Þetta orð innilykur þá í sér þrenslags persónur; fyrst eina þá, sem móðguð verið hefur, hvørrar móðgan eptir sig leiðir stríð eður hegníngu; þarnæst eina persónu, sem móðgað hefur, hvørri búin er reiði og refsíng frá hendi þess, sem móðgaður er; og í þriðjalági persónu þá, sem sáttum kémur á millum hinna tveggja. Og hvørsu vel á ecki þetta heima í tilliti til Guðs og manna, og þess sem Jesús Christur hefur að verkum gjørdt þeirra á milli? Og það þó heldur, sem orðið bendir til einnar misjafnrar maktar í tilliti þess, sem móðgaði, og þess sem móðgaður hefur verið. Því væru þeir jafnir, riði hinum ecki á friði við þennan, framar enn verkast vildi, þar hann væri í standi til að beita makt á móti honum. Nú var, sem vér vitum, svoleiðis

ástadt milli Guds og manna, ad Gud var hræd-
iliga módgadur og til reidi reitiur med syndum
mannkynsins — mannkynid átti einkis annars von,
en eilífs ófridar af hönum, sinna synda vegna.
Ránglæti og vanmætti var á mannanna sídu, en
réttlæti og almætti á Guds. Manneskjan hafdi af
sér brotid síns skapara náð og elsku med óhlýdni
sinni, og hlaut ad lída, hvad hans réttlæti vildi á
hana leggja, þar hún hvörki gat straffinu af sér
hrundid, né bætt fyrir þad sem þegar brotid var.
Þvílíkt var nú ástand allra Adams nidja; fyn þetta
vard sök og ránglæti hladid, strax eptir sinn upp-
runa, og sídan hafa allir syndgad, og hafa skort á
hrósun þeirri, sem fyrir Gudi gyldir.

Þessi fordæmíngar makliga skepna kann alls
ekki, án allra stærstu vogunar og blygdunarleysis,
ad koma fram og bidja um lífgjöf, fyrir augliti
eins módgads Guds og skapara, þar á milli þessara
tveggja, syndugrar skepnu og réttláts Guds, er
hendanliga «mikid djúp stadfest.» Og á soddan hátt
kunni syndarinn eckert sjálfur til ad gjöra; já alls
eckert nema skélfast og lída þad sem á hann lagt
yrdi. Skyldi þar annars vera nockur vegur til ad
umflýa straffid, nockurt medal til ad fá frelsi og
nockur ástæda til ad ödlast fyrirgéfníngu og upp-
gjöf, þá hlaut sá vegur, þad medal, sú ástæda ad
ágvardast einúngis af sjálfum þeim alvalda kon-
úngi, hvörs hátign módgud var, af sjálfum þeim
réttláta dómara, hvörs heil. lögmál hafdi mann-

efkjuna til dauda dæmt. En þvílíka eina áqvörðun var sá módgadi og vanheidradi einvaldskoúngur í eingu tilliti skyldugur ad gjöra; svo ef hann, eingu ad sídur, gjördi hana, þá hlyti slíkt ad vera einn ávöxtur hans ómælanligu og fríu nádar og miskunsemi.

Sannliga er nú fridþægíng sú, sem evangelíum oss kunngjörir skéna, fyrir fórnfæríngu Guds sonar, ein þvílík áqvardan, er fylliliga svarar ádur sagdri afmálun. Hún er ein afleidsla einskjærrar nádar, eintómrar miskunsemi, og þad vegna þvílíkrar skepnu, sem var daudasek og allrar nádar óverdug, já ab deilis óumflýanliga fortöpud, ef þvílíkt eitt — sem fridþægíng Guds sonar — hefdi ecki á milli komid. En þó er nú þar hjá vel adgjætandi, ad þessi fridþægíng, hvörja sjálfur Gud áqvardad hafdi, bendir oss naudsýnliga til ad álíta hana svosem eina verkun og ávöxt, en ecki orsök og tilefni elsku Guds til syndaranna. Stórliga mikid rídur á því ad þessi athugi sé vel í minni festur. Þegar vér tölum um dauda Christis, svo sem eina fridþægíngu, edur þvílíka, sem gjört hafi guddómliga veru nádugu syndurunum, þá skulum vér dyggiliga vara oss vid ad íminda oss, ad nockud þesshátar meint sé med slíkum ordatiltækjum, er ollad hafi nockurri umbreitíngu í Guddómsins náttúru edur sinnislagi; rétt eins og sá blessadi Gud skyldi hafa þurft nockurs þess vid, er hrærdi hann til miskunar, og kjærni hönum til ad vera nádugur, edur sem eins

betalíngs fyrir sinn kjærleika og náð til mannkynsins. Lángt sé þánki sá frá hjarta voru! — neý, Jehóva er eilífliga, ómbreitanliga, óendanliga líknarfullur og miskunsamur. Að sminda sér að einslags umbreitíng skéð hafi í hjarta Guðs, fyrir Christi meðalgaungu, frá áðurverandi blóðþorsti hefndargyrni, til meðaumkunarsemi og líknar, stríðir bæði móti skynseminni og ritníngunni. Fjærri því! heldur var sökinni svoleiðis háttað: Svo sem Guð er óendanligur í kjærleikanum, svo er hann líka svo óendanligur í heilagleika, réttlæti og sannleika. Eðli hans er óendanlig gjæðska og fullkomin hátign. Allt hvað hann gjörir, flýtur fram af hans óendanligu gjæðsku, er samhljóðar sjálfri sér í öllum hans aðhöfnum. Hans blessuð náttúra er ein og ómbreitanlig. Þegar hann framkvæmir kröfur síns réttlætis, þá raskar hann á eingan hátt rétti sinnar miskunar; og þegar hann útbreiðir sína miskunsemi, þá fær hann ei gjört það á annan hátt, enn það sambjóði undir eins dýrð hans og réttlæti. Nú var Jehova, svo sem einn réttlátur alstjórnari móðgaður með því, að mindugleiki hans guðdómligu hátignar var forsmáður með óhlýðni mannesskjunnar; en eingu að síður var hann þó, vegna þeirrar óendanligu gjæðsku, sem býr í hans náttúru, á sama tíma, fullur af laungun til að fyrirgéfa. Sú stóra spurníng hlaut þá að koma til úrlausnar: hvörnig má slíkri fyrirgéfníngu viðkoma við þá seku; og það svoleiðis, að undireins sé þó fullnægt

krøfum þess hendanliga réttlætis, og í sínum fulla verdugleika vardveitur mindugleiki alsijórnarans, ad øllum hans alveldis rétti og øllu hans løgmáls tilkalli aldeilis óskértu? Þad blasir bert fyrir augum, ad nær madur, á þennan hátt, ímindar sér Gud miskunsaman, þá lítur þad ei til þess, ad verka hjá hønum kjærleika, heldur til þess, á hvørt hátt hans kjærleikur auglýstur yrdi; meiningin er: hvørsu hans kjærleikur yrdi á þvílíkan hátt auglýstur, ad midt í því hann auglýstist, léti sig þó undir eins, á jafnan hátt, í ljóst heilagleiki hans og réttlæti.

Þegar svo er ad ordi komist, ad Gud módgist af nockurri sinni skepnu, þá álítur hann þá sømu, ei svo sem skepnu, heldur sem syndara. Hann hefur ei gédþeckni á dauda þess sem deyr; enn hann hlýtur þó endiliga ad hata syndina, og straffid fyrir hana útheimtist bædi til dýrdar vid hans réttlæti, og svo til þess almenna besta, sem syndin midar til ad spilla. Þarfyrir kann þad í þessu tilliti ad seigjast um Gud: «ad hann sé þeim vondu reidur dagliga dags" (vs. 7, 11.) «ad hann hafi sett auglit sitt móti þeim sem illa gjøra" (vs. 34, 16.) «ad hann hati alla þá sem ránglætid adhafast" (vs. 5, 5.) «ad reidi hans opinberist af himnum gégn øllum ógudligleika og ránglæti mannanna" (Róm. 1, 18 &c.) Og þegar Gud fyrirgéfur, þá er svoleidis til orda tekid: «ad hann snúi sér frá sinni grimdarbrædi og burtutaki alla sína reidi" (vs. 85, 3.) «ad hann snúi sinni brædi í burtu" (Es. 12, 1.)

«að hann ecki haldi reiðinni æfinliga, af því hann hafi eptirlæti af að miskuna” (Mich. 8, 10) «að hann láti friðstillast við synduga menn, nær hann fyrirgéfur þeim, það sem þeir hafa illt aðhafst” (Esech. 16, 63.)

Þetta er nú forlíkunargjörð eður friðþægíng sú, sem Guðs sonur afrekað hefur; og heil. ritníng útlistar svo allstaðar, að það sé fyrir hans niðurlægíngu, hlýðni, píslir og dauða, sem Jehóva sé náðugur orðinn manneskjunum og hafi á þeim velþóknun; sökum þess að þetta verk Christi — sem fullkomliga fyrir sjónir setur hans heilagleika, réttlæti og sannleika, í sameiníngu með hans miskunsemi; lætur æfíngu þessa síðast nefnda fullkomleika við syndugar skepnur — í því að fyrirgéfa þeim og til náðar að taka — samhljóða svo vel eilífri hátign allra hinna fyrtöldu.

Sá stránga bókstafur guðdómligs lögmáls útheimtir að vísu, að straffið komi yfir persónu þess sama sem syndgar: «Sú sála, sem syndgar, skal deya” seigir drottinn (Esek. 18, 4.) item: “bölvaður veri hvör sá, sem ecki heldur allt það, sem skrifað stendur í lögmáls-bókinni, að hann gjöri þar eptir” (Gal. 3, 10.) En, þess er að gjæta, að lögmálið lýsir hér dauðadómi yfir sjálfum syndaranum, vegna þess það gjörir ei ráð (svo sem það og, eptir hlutanna eiginligu náttúru, ecki kann að gjöra) fyrir neinu hjálparmeðali, og géfur einga bendíngu til nockurs möguligleika að umflýa það

straff, sem manneskjunni — svo sem einum yfir-trodslu-manni, búið er. Sá dýrdlegi andi lögmálsins er eingu ad sídur eins verulíga vardveittur, þad stóra augnamid þess endurgjaldanda réttlætis eins fullkomlíga uppfyllt, og mindugleiki og tign þess guddómliga veldis eins algjörlíga hefdadur, med því ad leggja þad réttvísa straff á persónu eins borgunarmans, hvílíks, sem ánægjanligan verdugleika hefdi til ad bera, hefdi sjálfur frívilugliga tekid straffid uppá sig, og væri af þeim módgada einvaldsherra opinberliga vidurkéndur ad vera tekinn í stad þeirra sekn misgjördamanna, til ad leggja uppá hann þad straff, sem þeir tilunnid höfdu. Já, hvad meira er, þegar vér, í þessu nálæga tilfelli, álítum verdugleika þeirrar persónu, sem í vorn stad leid, svo sem óendanligan, þá næst þetta ádur-sagda Guds réttlætis augnamid, ecki einúngis eins fullkomliga sem ella, heldur jafnvel í einni óendanliga hærri tröppu. Med pýslum og dauda þess guddómliga Jesú, er sannleiki Guds, í uppfyllíngu hans hótana gégn syndinni, og hans réttlætis, í áleggíngu þess makliga straffs, auglýstur á einn hátt, sem óseigjanliga meir gétur tekid á mann og hrært hans hjarta, heldurenn þó hefndin, í hennar fulla mælir, fallid hefdi á þá aumkunarverdu yfir-trodslumenn sjálfa, hverjir þó annars, fyrir krapt hans dauda, umflýa fortöpunina og ödlast eilíft líf. Þad skédur þessvegna á þennan hátt, ad vér sjáum, hvörsu ad Gud géti réttlátur verid, þó hann réttlæti

ógudligan; ad hann hreinsar syndaran, en ecki hans syndir; ad hann veitir hønum nád og lífgiøf, en tekur þó hesndir fyrir hans illgiørdir; ad hann fríiga, fullkomliga og eilífliga fyrirgéfur, en þad samt á þann hátt, og med svoddan móti, ad fyrirgéfníngar verkid sjálft auglýsir þad, ad syndin, sem hann fyrirgéfur, er einn vidurstyggiligur og hatadur hlutur í hans augum; í einu ordi, vér sjáum af þessu, hvørsu Gud svarar fullkomliga þeim ómælanliga háleita og, oss syndurum, óseiganliga mikilsverda titli, ad heita «réttlátur Gud og vor frelsari" hvør ad er syndaranna vinur, en syndarinnar eilífur óvinur.

Aldeilis samhljóda þessum hugleidíngum, er sú merkiliga afmálan, sem postulinn Paulus, í 3 Cap. síns pistils til rómverja, gétur, hvør ed lítur til þess stóra augnamids, sem fridþægíng edur forlíkunar offur Christi hafdi, nær hann seigir: «hvørn Gud setti til eins nádarstóls, fyrir trúna í hans blódi, hvar med hann auglýsti sitt réttlæti, í því ad fyrirgéfa ádurdrýgdar syndir, hvørjar hann umborid hafdi. Til ad auglýsa á þessum tíma sitt réttlæti; nefniliga ad hann géti réttlátur verid, enda þó hann réttlæti þann, sem trúir á Jesúm" (Rom. 3, 25. 26.) Athuga vel þessi postulans ordatiltæki: ad Christur var settur til eins forlíkunarmedals, til ad auglýsa Guds réttlæti, og til þess ad Gud géti réttlátur verid, þó hann réttlæti þann,

sem trúir á Jesúm. Meiníngin er: ad allar þær syndir, sem á undanförnum öldum, ádur en uppfylling tímans kom, höfdu fyrirgéfnar verid, vóru fyrirgéfnar í tilliti þess er sídar ské skyldi, þad er í tilliti þeirrar fridþægíngar, sem Jesús, med sínum dauda, verka skyldi. Réttlæti Guds, í því ad umlída og fyrirgéfa þær fornu syndir, auglýsist þá á þeim tíma; sá grundvöllur, uppá hvörn fyrirgéfníng syndanna hafdi altíd ádur undir nidri bygd verid, vard nú í ljós leiddur, og sá sami er grundvöllurinn enn nú, fyrir hvörn sá er réttlátur, sem réttlætir þann ógudliga, nefnilíga Gud, þegar hann tekur til nádar einn ógudligan, sem ydrast og trúir á Jesúm Christum.

En hvörnig — muntú kannské framar spyrja vilja — hvörnig er þad sambjódandi Guds réttlæti, ad sá saklausi skuli vera látinn lída fyrir þá seku?

Ef þú fyrir þann saklausa, sem lída var látinn, fyrir þá seku, meinar þvílíkan einn, sem naudugur væri látinn gánga í annars stad, og sem eingan krapt hefdi til ad velja um annad en fram vid hann kæmi, heldur hlyti ad lída, móti sínum vilja, pýslir á hann lagdar, eptir annara gédþeckni, þá andsvara eg: ad þad tilfelli, sem lítur til þeirrar störu fridþægíngar, sem um er talad, er allt ödruvísi. Sonur Guds var einn viljugur borgunarmadur, einn sjálfsús lídari; náttúra hans var í sannleika þvílík, ad eingin pýsl gat möguliga á hann lögd verid, af ödrum, án hans vilja, og án þess

hann sjálfur hefdi frívi̇ljugliga kosid þad; «þvï þó hann væri í Guds mind, héldt hann þad þó ecki fyrir herfáng Gudi líkur ad vera, heldur audvyrdti sjálfan sig, og tók uppá sig mind eins þræls, og gjørdist líkur ødrum mønnum, og vard fundinn ad hegdun sem madur, lítilæckadi sjálfann sig, og vard hlýdugur allt til daudans, já allt til daudans á einum krossi" (Phil. 2, 6. 8.) Því verdur hann fyrir sjónir settur, svo sem seigandi: «sjá eg kém, mitt eptirlæti er ad gjøra þinn vilja, minn Gud! hvørs vilji ad var offran hans líkama, eitt sinn fyrir øll" svo sem ein fórnfæríng fyrir syndina (sjá Ebr. 10, 7. 10. og ps. 40, 7. 8.) Já hann sagdi sjálfur: «eg em gódur hyrdir; gódur hyrdir gésur sitt líf út fyrir sína saudi. Eg legg mitt líf út fyrir saudina; einginn madur tekur þad frá mér, heldur legg eg þad af mér sjálfur" (Joh. 10, 11. 15. 18.)

Hugleid en framar, ad ef fridþægíng skyldi gjørast fyrir alla, þá kunni hún ecki gjørast af ødrum, en þvílíkri veru, í hvørri sameinad væri þad fullkomnasta sakleysi, hinni fullkomnustu einvaldsmakt yfir sínu eigin lífi.

Sú lægsta synda trappa vildi hafa gjørdt þann sama meir en óhæfan til ad fridþægja fyrir annara syndir; þar þad vildi hafa gjørdt naudsýnliga fridþægíngu sjálfs hans vegna. Ef þú nú trúir — sem eg ecki efast um — ad Jesús hafi saklaus verid og oldúngis án syndar ad øllu leiti, þá, ádur en

þú spyr: er það sambjóðandi réttlæti, að sá saklausi líði fyrir þá seku? Þá svara þú þessari spurníngu: er það sambjóðandi réttlæti, að sá saklausi skuli nockuð líða? Þar er eingrar þrætu þörf um augnamið lídunarinnar. Hér er sá hinn saklausi líðandi; og þó það sé fyrir þann seka, á þann hátt, að hann gaf sig viljugan í hans stað, hvörsu kann reikníngskapur krefjast fyrir þvílíkt verk?

Að hann leið, hlaut að hafa skéð í einhvörju ánægjanliga verðugu augnamiði; og hvört augnamið kann ímindast verðugra Guðs óendanligu gjæðsku og flecklausa heilagleika, helduren frelsan einnar sekrar sképnu, á þann hátt, að það gjæti til stærstu dýrðar orðið báðum þessum hans guðdómligu eiginligleikum?

Þegar vér nú skoðum efnið í þessu ljósi, þá hugsum til þess, syndugur maður! hvílíkur speigill kjærleika og miskunar lifanda Guðs oss verður hér fyrir sjónir settur! Heilög ritníng talar mikið þar um. «Naumast vill nockur", seigir Páulus, "deya fyrir einn réttlátan mann, því fyrir einn góðan kynni máské einhvör vogast til að deya; en Guð hefur auglíst sinn kjærleika til vor með því, að þegar vér vorum syndarar, deyði Christur fyrir oss" (Róm. 5, 7. 8.) «Í því er kjærleikurinn", seigir Johannes, «ecki að vér elskuðum Guð, heldur að hann elskaði oss og sendi sinn son, til friðþægíngar fyrir vorar syndir." (1 Joh 4, 10.) Hvílíkt eitt hjarta má það þá vera (og eingu að síður

er þó sérhvørs eins mans hjarta af náttúrunni þótt-ékt), já hvørsu ómælanliga vondskufullt, og hvørsu óhæfiligt til allra heilagra og edalligra elsku- og þacklætis-tilfinnínga, sem gétur feingid af sér, ad skúfa frá sér gáfu þessarar forundrunarverdu miskunar lifanda Guds?

O legg uppá hjartad, minn vin, eg bid þig, þessa meiníngarfullu spurníngu postulans: «hvørsu munum vér umflúid fá, ef vér vanrækjum svo stórt hjálpræði?" (Ebr. 2, 3.) Eina spurníngu, sem bendir til þess, ad ecki einúngis sé oss, í þessu tilfelli, ómøguligt ad umflúa Guds reidi, heldur og ad þad sé aldúngis óskynsamligt ad vænta þess.

Med þessu, ad Gud útgaf sinn son vor vegna, verdur vondska sú, sem í syndinni er, fyrir sjónir sett, í því allra skærasta ljósi, og um þad, hvørsu þad aldeilis ómøguligt sé, ad hún, undir stjórnun þess réttláta Guds, verdi órefsud látin, sannfærumst vér svo kroptugliga, ad þad leifir alls eingan efa. Minstu þess þarfyrir, ad þú átt ad skipta vid þann Gud, sem synda þinna vill endiliga hefna.

Hugleid, ad ef hann vildi reikna þínar yfirtrodslur, þá fær þú ecki stadist; því sökum þess þú syndgad hefur, ertú allareidu dæmdur eptir úrskurdi hans réttláta løgmáls. Hvad sem þú fyrir þig tekur, edur tilreyna villt ad gjøra, til ad þóknast Gudi og þjóna hønum, verdur þér þad aldeilis ómøguligt ad bæta úr þessum þínum vandrædum.

Á þvílíkan hátt að leitast við að afla þér hylli og friðar við lifanda Guð, er eitt hégomligt og ávaxtarlaust erfiði; og þar á ofan er það líkasvo ein, í mesta máta, dramblsm og Guð vanheiðrandi fyrirtekt, vegna þess að það tilliit liggur í henni, að hann — sá óendanliga heilagi, geti látið sér nægja með góðverk og þjónustu einnar syndumspilltrar og saurugrar skepnu. Kasta þessvegna frá þér slíkri dárligri von! því hún fær aldrei staðist. En viljirdú fá frið við Guð, ber þér að líta í aðra átt. „Christur er vor friður." Það verk, á hverin friður vor við Guð byggjast hlýtur, er það, til hvörs eg verið hefi, hér að framan, að benda þinni athugasemi; nefniliga sú fullkomna hlýðni og friðþægíng Guðs sonar. Hún er það verk, sem hann, fyrir laungu síðan, fullkomnað hefur, þegar hann á Golgata fjalli hneigði niður sitt höfuð og gaf upp sinn anda; eitt þvílíkt verk, i hvörju alls einginn syndari nockurn tíma hefur, eður nockurn tíma kann þátt að eiga, hvörki með því að hafa framkvæmt það, né hafa af því heiður. Þetta er það verk, í hvörju alleina Jehóva finnur sína velþóknan, og í tilliti hvörs hann, af náð sinni, útbýtir, jafnvel þeim stærstu syndurum, öllum gjæðum hins eilífa lífs; í því einsömlu finnur sá eilífi Guð sína fullkomnu friðstillandi ánægju; í því er öll sú óendanliga fylling hans miskunar, líkasem í einn sjóð, samansöfnuð. Drag þig ecki þessvegna, minn vin, sjálfann á tálar, með þeirri von, að miskun hans

kunni nockurstadar annarstadar fundin verda, edur ad Gud vilji nockurn tíma, og ecki seilífdinni sjálfri, blessa nockra syndnga skèpnu med sinni nád og gjædsku, nema einúngis í Jesú Christo, sínum elskuliga syni.

En jafnvel þó miskunsemi Guds kunni nú hvørgi annarstadar, en i hans syni, ad sinnast, þá gèfst þèr líka kostur á ad finna hana þar; já þvílíka eina, sem eckert takmark hefur. «Verdlaun syndarinnar er daudinn", seigir ritníngin, en gáfa Guds er eilíft líf, í Jesú Christo, vorum Herra." Tilgángur minn, med rædu þessari, er þarfyrir ecki sá, ad leida þig til ad orvænta miskunar Guds, heldur ad eins til ad orvænta hennar þar, sem hún ecki fundin verdur; og þetta sama vil eg gjøra, med ad útilykja þína von frá løgmálinu, edur frá allri þeirri atferd ad leita nádar, sem þú kant hjá sjálfum þèr ad taka; en vil þar á móti upphvetja þig, med einni yndælli naudúngu, ad leita einúngis þeirrar fríu Guds nádar, sem auglýst er í evangelío hans sonar. Sem syndarar, erum vèr allir fortapadir, og eptir løgmálinu erum vèr í hrædiligasta ástandi. Ef vèr nú ei vissum edur þecktum neitt annad, og eingan annan lærdóm, en løgmálsins, þá væri þad vissuliga einn skèlfiligur sannleikur fyrir oss. — En hvarfyrir viljum vèr undanfærast ad íminda oss hid versta um ástand vort af náttúrunni, þar oss er til reidu eitt fullkomid lækningsmedal, ef vèr þad viljum rèttiliga brúka? Hvarfyrir viljum

vér setja nockra von til lögmálsins, sem eckert hrópar yfir nockrum syndara, nema eintóma bölvun og fordæmíngu, med því vér hast gétum „góda von fyrir nádina"? Hvarfyrir viljum vér hafa oss undanþégna, ad játa sjálfa oss réttiliga fordæmda, þar oss í evangelío frambodin verdur ein frí og fullkomin uppgjöf á öllum vorum syndum? Hví viljum vér svo hégómliga neita því, ad vér alls úrrædalausir og vanmáttugir séum, til ad gjöra nockurn þann hlut, er géti gjördt oss Gudi þóknanliga? þar vér erum þess fullvissir, ad Christur dó fyrir slíka, sem sjálfir eingan krapt þar til hafa? O! orsökin er: syndin hefur gjördt oss drambsama. Rétt þad sama, sem oss hylja ætti blygdun og skömm, og apturlæsa vörum vorum med ordlausum vidbjód á sjálfum oss, þad sama hefur gjördt oss stolta og hofmóduga; og þetta dramb gjörir oss trega til ad játa sjálfa oss, svo völdúngis, örmagna og úrrædalausa, ad vér fyrir þad komnir séum uppá eintóma nád. O! ad Gud, vegna sinnar óendanligu medaumkunar vildi vyrdast til ad nidurdempa þetta stolt í sálum vorum, og gjöra oss fúsa til ad verda skuldunauta einskjærrar miskunar fyrir sáluhjálp vora, og til ad þyggia hana, sem hans gjöf, án penínga og án betalings! A eingan annan hátt vill Gud veita oss hana; en á þennan hátt er hann reidubúinn ad láta hana í tje, jafnvel þeim stærstu syndurum, þó einúngis fyrir sakir síns sonar. Hönum hefur hann vitnisburdinn géfid; og

með hans upprisu frá dauðum hefur hann auglýst sjálfan sig ánægðan með verk endurlausnarinnar, er sami hans eigin sonur hafði til lykta leidt; hann hefur opinberliga játað hans réttlæti fullkomið vera, hans friðþægíngu fullgylda, og hefur látið úthrópa þann vitnisburð um sinn son, hvørs höfuð atriði þetta er: "hvør á hann trúir, skal hólpinn verða." Þessvegna kann alls einginn að íminda sér það rétt sé, að kraptur Christí blóðs skuli ná til þeirra, sem það forsmá. En hvør sem trúir á þetta Jesú blóð, svo sem blóð eins alfullnægjanda friðþægíngar offurs, og leitar sér forirgéfníngar og lífs einúngis til sóta þeirrar forþénustu, sem af þessari friðþægíngu flýtur, já leitar hennar, svo sem einn sekur, og annarskostar hjálparlaus og fortapaður syndari, sá mun aldeilis ekki útrekinn verða. «Vér erum sendibodar í Christí stad (seigir einn af hans postulum), því Guð lætur oss áminna fólk sín vegna, og vér biðjum fyrir Christí skuld, látið sætta yður við Guð! vegna þess að hann gjørði þann, sem af eingri synd vissi, að synd fyrir oss, svo vér mættum, fyrir hann, verða svo réttlátir, sem Guði líkar" (2 Cor. 5, 20.)

Ef friðþægíng þessi, minn kjæri vin! er nú svoleiðis grundvöllur þinnar vonar, þá leif mér að álykta þetta mitt mál, með að minna þig á, að þín skuldbindíng við Guðs miskunsemi mun þá einungis upphvetja þig, svosem «ecki þinn eiginn, heldur verði keyptan, til að dýrka Guð í þínum

líkama og í þínum anda, sem eru Guðs eign, og til að lifa honum, sem fyrir þig dáinn er og upp aptur risinn" (1 Cor. 6, 20 - 2 Cor. 5, 15.) «því ef blóðið Christí, sem, fyrir þann eilífa anda, fórnfærði sjálfum sér, án fleckunar, Guði, hefur hreinsað samvitsku þína af dauðum verkum, þá muntu þjóna lifanda Guði" (Ebr. 9, 14) já þú munt elska það, sem hann elskar, og hata það, sem hann hatar; umflýa, með árvekni, það sem hann fordæmir, en framgvæma, með vandlæti, það sem honum þóknast, og sannliga muntú þá hafa eptirlæti af að hafa samfélagskap með honum.

Nær þú nú finnur í sjálfum þér nálægð og íbúð Guðs náðar, með von um að verða fullkomliga frelsaður frá syndinni, og um að þú verða munir algjörliga og eilífliga njótandi Guðs ímindar og Guðs kjærleika, þá mun þetta verða þér hin mikilvægasta huggun í öllum þínum hérvistar mæðum, og ein uppsprettubrunnur hins æðsta fagnaðar. En vit þó fyrir víst, að þú eingin not hefur af Jesú, sem endurlausnara, ef þú ert honum ecki undirgéfinn og hlýðugur — sem þínum konúngi, já þú heíur einga sanna og grundaða von um að vera með honum og líkjast honum síðarmeir, ef þú ecki, meðan lifir, lætur þá von verka það hjá þér, «að þú hreinsar þig sjálfan, eins og hann er hreinn" (1 Joh. 3, 3.) því «hann gaf sig sjálfan út fyrir syndarana, svo hann giæti endurleyst þá frá öllu ránglæti, og hreinsað, sjálfum sér til handa, eitt

eiginbómsfólk, sem kostgjæfid væri til gódra verka" (Tit. 2, 14.) Og «þessi er sá vitnisburdur, sem vér hø um heyrdt af hønum og opinberum ydur, ad Gud er ljós, og í hønum er eckert myrkur. Ef vér nú seigjum, ad vér høfum samfélag med hønum, og gaungum þó í myrkrunum, þá ljúgum vér og seigum ecki sannleikann; en ef vér gaungum í ljósinu, líka sem hann sjálfur í ljósinu er, þá høfum vér samfélag innbyrdis, og blódid Jesu Christi hans sonar hreinsar oss þá af øllum vorum syndum." (1 Joh. 1, 5-7.)

* * *

Lamb Guds! sem dauda dóst, dýrmætt þitt lausnar blód
alls løgmáls eyddi þjóst, útslöckti vítis glód;
lífskraptur þess ei þver, þar til Guds keypta hjørd
frá synd gjørfrelsud er, á fridarins sælu jørd.

Med trúar sjer eg sjón, sannheilagt blódid þitt
breidandi blídt um frón blessunar verkid sitt;
um pína elsku' eg vil æ syngja, medan hér
andan dreg, allt þar til andlát þess varnar mér.

Sætara syng eg þá, í sal dyrdar, lofstír þinn,
útvøldum øllum hjá, ó herra Jesú minn!
þackklætis þíoust stil, þitt fyrir lausnar verk,
um eilífd þér inna vil; er sú min laungun sterk.

Himinsins von mitt hiarta gledur,
huggun og yndi sálu gèfst,
til fullkomleikans framfør skèdur,
frá styrk til styrks um eilífd hefst.
Ekkist barndómi lífid hér;
lífid algiørfa á himnum er.
A reinslutímans tœpu døgum
typtar, Þú Gud! og frædir mig,
holla mér veitir vísdóms øgun
svo vegsemd mér hepnist eingillig;
á bak vid daudans bleiku ský
byrtist mér eilífst liósid því
Rødd lífsins hátt í eyrum hliómar
heyri' eg Þad er míns Jesu raust;
í trú sig gledur ønd mín fróma,
eblist mér huggun von og traust!
Efalaust treyst' eg á Guds son,
á hans ordum mín byggist von.
Ønd mín í Þaunkum áfram skundar
eilíf Þángad sem gledin býr;
hlacka eg sœtt til himins funda,
hvar eingla saungur dillar nýr.
Mildasti Jesú! mig tilbú
mér svo ad vegsemd hlotnist sú!

---

Kaupmannahøfn 1818.
Prentad hjá Þorsteini E. Rangel.